# Frásögn

## eins prédikara, vid eitt Greifahof, um sína umvendun, og um síns embættis blessun.

---

Til þess ad tala fátt eitt um þá stóru nád, sem Gud audsýndi mér óverdugum, allareidu á mínum úngdóms árum, ádur enn eg gékk á hástólann, þá var mín holdliga módir Elísabeth H. sú, fyrir hvørrar adstod ad Drottinn kroptugliga dróg mína sálu til sín. Hún hafdi í frá úngdómi, sem þó, því midur, miøg fágiætt er, óttast Gud af hiarta, sem og hafdi vardveitt hana, midt í mørgum megnum freistingum, svo hún loksins komst svo hátt, ad hún, med diørfúngu og stoduglyndi, framgékk í sonnum Guds ótta, út af trúnni á Jesúm Christ, og med sínu einardliga framferdi upphvatti okkur børn sín alvarliga, til þess vid skyldum ogsvo ofurselia okkur Drottni til hlýdnis. Eg var þad siotta og ýngsta barn, sem Gud gaf henni. Þegar eg fæddist, sem var árid 1692 þann 22 aprilis, vóru mínir elskuligu foreldrar svo fátæk, ad þau áttu ekki svo mikid sem reif til ad vefia mig í; hvørsvegna eg var sveipadur innan í pils, og svoleidis ad mér hlúd; þar til Gud hagadi því svo til, ad nágranni foreldra minna, sendi þeim nokkud til ad reifa mig í. Mín elskuliga módir hefur margopt sagt mér, ad hún allareidu, medan eg var í módurlífi, hafi

helgad mig Drottni til handa, og síđan aldrei svo einusinni lagt mig sér á brjóst, ađ hún ekki ađ nýu hafi ofurseldt mig Drottni. Þar fyrir var þađ vani hennar, ekki ađ eins frá minum fyrstu barnæsku árum, sem mig enn nú gløggt til minnir, þrávallt ađ tala viđ mig um Christs fegurđ og ástúđleika, heldur ogsvo, þegar eg tók ađ eldast, leiddi hún mig opt út fyrir dyrnar á kvøldin, þegar heidríkt var, sýndi mér himininn, og talaði mikiđ viđ mig um skaparans almætti, gjæđsku og vegsemd, og um þá stóru sáluhjálp, sem hans børnum fyrirbúin væri. Þegar hún vakti mig á morgnana, var þađ hennar fyrsta verk, ađ hún bađst fyrir ásamt mér, og spurđi mig síđan þar á eptir: Henrik! viltu enn nú ekki ofurgéfa þig Herranum Jesú til handa? Stundum, þegar eg var í kokkhúsinu hjá henni, sagđi hún viđ mig: Henrik! eg er frá mér numin, eg er rétt frá mér numin; mér finnst allt ađ einu, eins og sé ekki framar hér á jørđunni! ó hvílíkur er Guđ! og s. frv. Slíkt tal gékk mér optastnær mjøg innilíga til hjarta.

Það bar til einusinni, þegar eg var hérumbil á minu 16da ári, og þá eg var kominn í skóla, að eg eitthvert sinn, að aflidnu middeigi, gékk heim frá skólanum, og að skáp einum í húsinu, ætlandi að skéra mér braudsneið. Rétt í því bili, að eg var farinn til þess, talaði móðir min til mín og mælti: Henrik! villtu enn nú ekki ofurgéfa þig til Guðs? Við þessi orð brá mér svo, að mér vyrdtist sem eg allt í einu sæi í huga mér himnaríki og helvíti, frá hvørju mér er þó ómøguligt að seigja, svo sem það var. Eg sá og smakkaði sognuð þeirra sáluhólpnu, og undir eins kvalir þeirra fordæmdu, og varð — eins og

Saul fordum — svo mjøg skélfdur, ad eg lét knífinn og braudid liggja, og gékk burt, eins og eg hefdi verid sleginn kinnhest. O, þú himneski kjærleiki, hvorsu skjótur ert þú ad sigra vesælann syndara! Med þvílíkum áminníngum og spurníngum gjørdi mín elskuliga módir mér allt mitt eptirlæti súrt og beiskt. Eg má seigja, ad eg aldrei átti eina gledistund, jafnvel þó eg leitadist vid ad gjøra mér kátt, ásamt mínum lagsmønnum; vegna þess þad hjet alltíd svo í minni sálu: med þessu móti getur þú ekki ordid sáluhólpinn og s. fr. v. Hennar bænir fyrir mér hafa ogsvo vardveitt mig frá því, ad eingar stórsyndir útbrutust hjá mér, á mínum úngdómsárum. Til ad sanna þad, vil eg framleida ad eins þetta eitt, Gudi til dýrdar. Þegar skólabrædur mínir søgdu mér frá, hvorsu þeir hefdu hér og þar gjørdt sig káta, og hafst ad ljóta og svívyrdilega hrekki, þá þókti mér rétt fyrir því med sjálfum mér, ad eg hefdi ekki í sollinum med þeim verid og notid sømu gladvordar sem þeir; æ! en nær eg svoleidis ángradist med mér út af þessu, var þad margopt, rétt eins og einhvor segdi vid mig þannig: sú stund mun koma, á hvorri þú eptir þetta munt á kné fram fallinn, med tárum, þakka Gudi fyrir, ad hann vardveitti þig frá ad vera í þessum solli. O þú himneski kjærleiki, þér séu eilífar þakkir fyrir þad! Og svoleidis sýnjadi Drottinn mér svínadrafsins. (Luc. 15, 16).

Í frá þessu mínu sextánda aldursári, hneigdist hjarta mitt æ framar og framar til umbreytíngar. Minnar módur ord festu æ dýpri og dýpri rætur hjá mér, og þau tóku svo á mig, ad eg ópt óskadi, ad

eg væri laus frá þessu hennar ógèdfeldu tali; því svoleidis fanst mér þad vera, vegna þess eg fann til krapts orda hennar, sem voktu stóra óróssemd í sinni minu, af því eg gaf þeim ei réttiliga rúm hjá mér. Hvad annars eptirtekta verdt, þetta snertandi, bar til fyrir mér, hefi eg orsök ad undanfella. Þegar hún nú einhvorntima aptur spurdi mig, sem vant var: Henrik! villtú enn nú ekki ofurgéfa þig herranum Jesu? svaradi eg: æ láttu mig nú vera í fridi, eg vil þad ad vísu, en gét þad ekki! Vid þetta mitt svar þagnadi hún; en ad nokkrum árum lidnum, sagdi hún mér, hvorsu opt hún borid hefdi upp fyrir sinum elskuliga Gudi þetta mitt svar: (eg vil þad ad vísu, en gét þad ekki!), og rétt sem strídt vid hann í sinum bænum, ad hann vyrdtist ad veita mér, ad géta þad framkvæmt, sem eg vildi í þessu efni gjöra, og ad hann vildi umvenda mér réttiliga. Loksins vard þad framgeingt á minu 19da aldurs ári. Eg gékk þá til hennar í kokkhúsid og sagdi: Æ módir gód! nú vil eg ofurselja mig Gudi til handa; þad er nú min alvara, og þér skulud sjá merki til þess! Hún rétti þá ad mér hond sína og sagdi ekkert annad enn: Gud blessi þig! gakk í burtu! Í frá þeim tima var bænin rétt minn andardráttur, og Guds ord min fædsla og stærsta endurnæring. Hjá minni módur fann eg góda huggun og adstod í því harda freistingastrídi, í hvorju Gud lét mig sveitast heil tvo ár; þó svo, ad hann veitti mér, endur og sinnum, þess á milli nokkra huggun.

Utvortis vard eg strags fyrir spotti og hædni, bædi af minum samvitskulausu skólabrædrum og hold-

liga sinnudu lærimeistlurum. Á gøtunni hrópudu þeir eptir mér og spottudu mig, leitudu ògsvo lags vid ad berja mig, og gjøra mér illt, þó eg hefdi ekkert til þess unnid. En eg umbar allt slíkt med hugrekki, og fékk marga innvortis gledi af míns elskuliga fødurs hendi.

Eg hafdi adsetur mitt á skólanum, vegna þess ad eg heima hjá mínum foreldrum hafdi ekkert tæki-færi til ad stúdera. Þá bar þad til einusinni, (því eg vil til kynna gésa ad eins nokkud þaraf), þegar eg, í uppbyrjun minnar umvendunar, kom frá kyrkju þann fyrsta Jóladag, og eg læsti mig inni minu svefn-húsi, eptir vanda, til ad þeinkja um innihald prédik-unarinnar í einrúmi, med hjartanligri bæn og ákalli til Guds, ad eg þá heyrdi, ad skólameistarinn var ad spila vid einhvørja adra. Undir eins datt mér i hug: en ef þeir kalla ogsvo á þig, til ad spila med sér; og rétt í sama bili bördu þeir á dyrnar, og óskudu, ad eg kæmi inn til sín. Eg kom inn, og spurdi hvad þeir vildu mér? Þeir ásystu mig þá, ad eg skyldi spila med sjer, hvad þeir þó aldrei fyrri gjørdt høfdu. Eg gét nú ekki útmálad, hvørsu Guds andi á adra sídu í mér leitadist alvarliga vid ad setja mér fyrir sjónir þá ótrygd, sem eg fremdi á móti Gudi, ef eg léti leidast til þessa, en þar á móti þann føgnud, sem eg skyldi fá, ef eg ad eins hreint afsegdi þeim þad. En á hina sídu djøfulinn, med ad gjøra fyrir mér sem mest úr því spotti, sem eg hlyti uppá mig ad taka, ef eg mælti móti þessu, og svo fr. v. Sídan afsagdi eg þeim þetta, og þeir kølludu mig af spotti heilagann, med fleiri hædnis ordum. En þegar eg nú eptir þetta, læsti mig ad nýu inni svefnhúsi

mínu, gladdi Drottinn mig með svo himneskum og ómælanligum fögnuði, að mér vyrðtist, sem og allareiðu væri í himnaríki. Eg hafði að eins lagt í sólurnar eina mjög litla og reyndar einskis verða æru, en Guð gaf mér aptur í staðinn óseiganligann fögnuð, og ávarpaði mig þannig í minni sálu: ó þú lifanda Guðs barn! (Hos. 1, 11). Þetta voru yndislig tíðindi minni kjæru móður, hvörri eg strags kunngjörði þennann sigur.

Í skólanum fékk eg fljótt leiða á þeim heiðnu lærdómsbókum, og eg las í þess stað í minni bibliu. Það var strax á laun, af hinum öðrum, sagt mínum skólameistara, hvörs vegna hann leitaðist við, í eitt skipti, af alvörn, að gjöra mig til skammar. Því svo bar til, að þeir í skólanum áttu einusinni að sýnakunnáttu sína í logika (eður álygtunarfræðinni), og smíðuðu þessvegna fjölda af skynsemdar álygtunum. Eg var síðan upphvattur að eg skyldi smíða eina. En þar sem eg hafði nú aldrei heyrdt þennann hégóma fyrri, en hafði í þess stað gjördt þá álygtun fyrir augliti míns elskuliga Guðs, eptir hans orði, að eg hönum til þóknunar, og vegna minnar ángráðu sálar, skyldi stríða ámóti þeim gamla Adam, þá þagði eg öldúngis. Smíðaði þá skólameistarinn, undir mínu nafni, eina álygtun svoleiðis: Guðhræðslan er dygð; Henrik er guðhræddur; þarfyrir er Henrik dygð. Þetta þókti hönum rétt frægðarverk, svo allir, sem tilheyrðu, hlóu þar að, sem voru yfir 70 að tölu af vörnum skólapilltum; en mér, sem var viðvaníngur í guðhræðslunni og enn nú mikið ærugjarn í náttúrunni, féll þetta mjög þúngt. Þó fékk ærugyrndin hjá mér

hvílíkt hnjesíg af þessari álýktun, ad eg þeinkti med mér þannig: Nú vel, med því eg ordinn er ad spotti hjá ykkur öllum, þá skal eg því framar vera mínum Herra Jesú trúr; þó eg tapad hafi minni litlu æru medal ydar! og sjá! Drottinn miskunadi sig yfir mig, og kéndi mér ad leita þess eilífa. Allt þetta flutti eg strags heim til minnar módur, og hún bar fram fyrir mig braud og vín, svo sem þann er kominn væri úr orrustu, og endurnærdi mig med Guds lifanda ordi. Ad eg brúkadi þann síd, ad læsa mig inni húsi mínu, eptir þad eg hlýdt hafdi á prédikun, til ad hugsa eptir henni, med heitri bænagjörd, þad hafdi eg lærdt af minni módur; því hún plagadi eptir prédikun ekki ad tala eitt ord, heldur héldt sig í kyrdum út af fyrir sig. Hún sagdist hafi inntekid læknismedalid, nefnilega Guds ord, þessvegna hlyti hún ad brúka þann rétta lifnadarmáta, med því ad halda þaunkum sínum í kyrdum; annars feingi þad alls ekkert hjá sér verkad. Þegar hún heimkominn frá kyrkju var búin ad skamta mat heimilisfólki sínu, og gat dreigid nokkurn tíma til muna, frá því sem hún þurfti ad vinna, gékk hún afsídis, grét og bad til Guds, ad hann léti sig hljóta þá blessun, sem fyrir sér hefdi verid brínd út af hans ordi. Þar á eptir fyrst bordadi hún nokkud sjálf, og nærdi þannig fyrst sálu sína, og sídan sinn líkama. Æ Gud gjæfi ad margar, já margar sálir breyttu svoleidis! Hvörsu stórann ávörd og blessun mundi þá ekki Guds ords prédikun, framar enn skédur, færa!

Arid 1713 þann 11ta maí kom eg til borgarinnar Halle, og þar var Jesús Christur mér fyrir

augum afmáladur, svo eg lærdi í hans andlíti, ad sjá Guds dýrdar ljóma. Sú fyrsta prédikun, sem eg þar heyrdi, var áminningar-ræda, og sála mín vard øll gagntekin af himneskum il og ljósi. Hefdi nokkur madur verid mér kunnugur í þessari borg, þá hefdi eg haldid, ad allt mitt sálar ástand hefdi verid greiniliga kunngjørdt Hr. Prófessor Franke, svo þad fannst mér sem eg væri øldúngis alleinn sá, sem ræda hans midadi til; þá framfór mitt sálar-brúdkaup, og þó fannst mér, sem eg ekki enn þá hefdi Christum réttiliga. Eg gaf mig þá á fund Prófessorsins og sagdi: nú kém eg hér, og ofursel mig ydur ad øllu leiti; annadhvørt vil eg nú gjørast réttiliga frómur, edur eg vil sleppa því øldúngis. Hann svaradi: þad fyrra ætti ad ské, þad sídara ekki; gaf mér svo þar ad auki nákvæmari undirvísun; Gudi sé lof fyrir sína nád, mér óverdugum audsýnda! Hartnær níu edur tíu mánudi dvaldi eg í þessari borg, og svo fann eg þann, sem mín sála elskar, og merkti líka ad eg var af hønum þekktur. Þá, þá runnu mínar fætur greidt á fridaríns veigi, og eg framgékk í mætti Drottins. Eg og Jesús vorum þá sem alleinir í heiminum, og líf, ljós og kraptur hafdi uppfyllt mína sálu. Saungtímar, prédikanir og áminninga-rædur þóktu mér sem besta balsam; og þegar þessi sálmur: "O Gud vér lofum þig!" var vid opinberar yfirheyrslur í kórum súnginn, fannst mér sem eg væri midt á milli Cherúbim og Seraphím. Þannig lokkadi mig Guds kjærleiki! Þessu var þó ekki alltíd eins háttad fyrir mér, því þar féllu brádt því hardari freistíngar uppá mig. Í stuttu máli ad seigja: mínn tími á háskólanum var

mér ekki annad enn stríds- gledi- og lærdóms-tími. Gudi sé lof! Peirra fimm ára ydrar mig ekki!

Peir fyrirlestrar úr Ritníngunni, sem eg héldt ásamt mínum landsmønnum, eptir þad eg var settur til ad halda þá og stjórna þeim, svovel sem bænatímarnir, urdu til stórrar blessunar. Vid þessa fyrirlestra ásókti þó Satan mig ákafliga í sínum verkfærum; en eg stód bædi hønum og þeim á móti, í Drottins krapti, og fékk sigur. Til þessa gjæti eg fært ýmislig dæmi, ef þess gjørdist þørf; þó vil eg ad eins vikja á, hvad tilbar í tvø skipti. Eittsinn var sá 9di kapítuli pistilsins til Rómverja fyrirlesinn. Med þvi nú sá kapituli var ofþúngskilinn manni þeim, sem átti ad fyrirlesa hann, til ad géta látid sína þánka um meininguna í ljósi, þá þagdi hann aldeilis. Peir stúdentar, sem eptir lagavitsku løgdu sig, og áheyrdu, spørudu þvi ekki munninn og gjørdu spott ad øllu þessu. Eg gleymdi bædi mat og drykk, og bad til Guds, ad hann vildi uppljúka mínum munni; en af því mitt hjarta brúsadi svo mjøg í mér, þá héldt Gud mér aptur, svo eg taladi ekkert í þad skipti. Þegar eg kom heim í mitt hús, þá klagadi eg yfir øllu þessu, sem til hafdi borid, fyrir Drottni, og sagdi vid hann: ad eg gjæti ekki þagad, eg hlyti ad verja hans æru, hann yrdi ad hjálpa mér til þess. Eg ásetti mér þessvegna ad láta lesa kapitulann aptur ad nýu, og gánga svo í gégnum hann, vers fyrir vers. Eg ætladi sídan ad uppskrifa nokkud mér til mynnis, en eg gat þad ekki; og því framar sem eg hrópadi til Guds, og taladi í gégn þeirri smán, sem hønum hafdi gjørd verid, þess þurrari og daufari vard eg; en eg sagdi

þá við Guð, að eg skyldi samt halda áfram mínu áformi, og frelsa hans æru, og eg hefði ásett mér að falla með honum, ef honum þóknaðist ekki að veita mér aðstoð. Eg gékk þessvegna í það hús aptur, hvar fyrirlesturinn var haldinn, las kapitulann sjálfur og tók í Guðs nafni að tala, jafnvel þó eg vissi ekki hvað eg ætti að tala. Fyrst setti eg þeim fyrir sjónir synd þeirra, og sýndi þeim uppsprettu þá, af hvörri það foragt flotið hefði, sem þeir daginn fyrir sýndt hefðu í gégn Guðs hátign; því næst hét eg að gánga í gégnum kapitulann, vers fyrir vers; og bað þar hjá að ef einhvör kynni þykjast hafa að nokkru að finna í minni útskýringu, þá skyldi hann þó ekki hreifa því fyrri enn eg hefði minni ræðu aflokið, og þá vildi eg með Guðs náð gjöra þeim hinum sama þá ánægju, að heyra hans mótmæli. Til þess vogaðist eg nú, einasta í trú og trausti til Drottins, því þar var þó margt í kapitulanum enn nú fyrir mér myrkt og óljóst. Þar eptir tók eg mér kapitulann fyrir hendur, og sjá! Guð upplauk þá fyrir mér þvílíkri uppsprettu, að orðinn runnu, rétt sem straumur, út af mínum munni. Gjörvallur kapitulinn varð opinn fyrir mér, og eg útskýrði hann með þvílíkri innvortis gleði, og svo stórri upplýsingu um efnið, hvílíka eg gat ekki tilmunað, að eg nokkurntíma hefði áður hjá mér fundið. Spottararnir urðu standandi, og við bæði borðin í húsinu gáfu allir gaum að tali mínu, framar venju, og minni ræðu varð af Guði tillögð kroptug blessan, svo eg jafnvel laungu síðar fékk bréf frá einum mjög vellærðum stúdent, í hvörju hann eignaði sína umvendun þessari minni útskýríngu, og þakkaði

af hjarta fyrir þvílíkann velgjørning. Í þessari minni rædu lét eg sjálfann þann góda Gud uppfræda mig í útskýringunni, og þessi kapítuli vard mér, í frá þeim tíma, einn kjarnríkur og kroptugur kapítuli. Þannig er Drottinn sjálfur sá besti útleggjari og naudhjálpari í øllum þúngskildum ritníngarinnar greinum.

Í annað skipti gjørdu lagavitsku stúdentarnir samtøk á móti mér, vegna þess ad eg einganveiginn vildi samþykkja þeirra leida og bregluliga framferdi, og bidu því eptir mér, úti fyrir matseljara húsinu, og ætludu ad gjøra mér duganligann adsúg. Þetta þeirra áform auglýsti einn Gudsorda stúdent mér strags eptir máltíd, og bad mig ad hafa gát á mér; eg svaradi, ad þegar eg væri búinn ad afljúka minu erindi vid matseljuna, þá ætladi eg ad gánga minn veg og bída þess, sem Gud vildi láta um mig verda. Þeir bidu sídan allir saman eptir mér, en á medan kom sundurþykkja á milli sjálfra þeirra, hvorsvegna þeir alls ekkért gjættu ad mér, þegar eg gékk hjá, og rétt á milli þeirra, og heilsadi uppá þá. Og á þann hátt fékk eg enn nú ekki þá æru, ad verda sleiginn fyrir Guds sakir.

Árid 1718 þan 6ta Maii kom eg til borgarinnar K. til þess ad uppfræda þau hágreifaligu Herra-børn, í þeim sama stad. Þetta mitt erfidi hefur ekki verid án blessunar, sem eg í fullu trausti til Guds nádar vona. Drottinn blessi þeirra hús ríkugliga, bædi í andligann og líkamligann máta. Árid 1720 þan 20ta Sept. héldt eg mína fyrstu prédikun í borginni E., hvort eg var kalladur til ad vera hofpredikari; þann 4da November var eg yfirheyrdur fyrir prestaréttinum,

og síðan vígður þann 6ta November eptir það eg haldið hafði prédikun yfir 2 Jóh. v. 9 og 11. Sem sérligt tilfelli hefi eg þetta eptirfylgjandi til athugunar tekið: þegar hoffpredikara embættið í E. var mér þann 29da August frambodið, og þeir dýrmætu Fedur í Halle hofdu í einum rómi ráðið mér til að taka á móti því, (já einn þeirra sérdeilis, með mjøg hrærandi tilskrifi), þá var þetta, meðal annars, mín stadføst bæn til Drottins, að honum einkum þóknaðist kroptugliga að gjøra mig fulvissann um minna synda fyrirgéfningu, og áhræra mínar varir, eins og Esaiæ fordum, með glóð af brennioffurs altarinu (Es. 6, 4), uppá það eg verða mætti fulvís um hans náð og aðstoð, og gjæti því heldur kunngjørt hans Orð, með míns munns djørfúngarfullri opnan. Um þetta sárbað eg til Guðs margsinnis um daginn. Þegar eg nú þann 6ta November skriftaðist fyrir biskupinum, áður enn eg skyldi predika, og hafði að nýu ofurgéfið mig eldúngis Drottni, í minni bæn, þá sagði biskupinn eldúngis af sjálfum sér, til mín, í aflausnar ræðunni, án þeß hann vissi neitt of minni svo opt itrekuðu bæn til Guðs: „þér meigið fyrir víst trúa því, að þegar Jesú Christi sanni líkami verður ydur framborinn, undireins áhrærir Guð himneskur ydar varir, og seigir til ydar: þínar syndir eru þér fyrirgéfnar, og á hann hátt líka sem smyr ydur og hæfann gjørir til síns embættis.“ Eg gét ekki fráskýrt, hvørsu þeßi orð styrktu mig, og með hvílíkri djørfúngu eg útbúinn varð, til að halda mína vígslupredikun, sem og til að inngánga mitt embætti, í Guðs nafni. Lofaður veri sá kjærleiksfulli Guð sem svo djúpt nið-

urlægir sig, til einnrar vesællrar og naudþreyngjandi sképnu!

Nú í embættinu var Drottinn strags í øndverdu kroptugliga med mér; hann blessadi einnig sitt ord dásamliga, svo ávøgsturinn af því auglýstist og sýndi sig hjá mørgum. Í þann tíma var ogsvo Prests-embættid í W. laust. Med því nú hinir adrir prestar gátu ekki vel komist þángad um veturinn, en yfirvaldid lét alltíd færa mig þángad, svo urdu flestøll embættis-verk samastadar mér uppáløgd; Drottinn var og med mér, og lét mig ogsvo af þessu minu erfidi nokkurn ávøgst sjá, mér til uppørfunar. Vid anneriu-kyrkjuna, sem þángad lá, gékk eg í hvørt sinn inni hús fógetans; og med því mér vyrdtist fólkid þesshâttar, ad madur kynni ávinna nokkud hjá því, þá yfirvegudum vid Guds ord, súngum og bádunst fyrir øll-saman, hvør med ødrum; hvar vid og svo optastnær bættust adrir af landsbygdinni. Fógetans kona, sem komin var nokkud yfir sextugt, kom til mín á heimili mitt, eptir þad eg flutt hafdi nokkrar predikanir, á nefndri Anneriu, og sagdi vid mig: ad eg hefdi í einni prédikun minni rádlagt þeim einføldu, ad nær þeir gjarnan vildu umvenda sér, og komast í andligann kunníngskap vid Drottinn Jesúm, þá skyldu þeir falla fram á sín kné, og mikid opt seigja þannig til hans: O minn elskuligi sáluhjálpari herra Jesú Christe, æ gjørdu mig ogsvo sáluhólpinn! og s. fr. v. Þessi ord sagdi hún, ad hefdu þreyngt sér svo djúpt inni hjarta sitt, ad þau fylgdu sér allstadar, hvar sem hún færi og væri, svo hvad sem hún hefdi ad sýsla, þá hlyti hún optliga ad láta allt liggja, sem þad væri

komid, falla fram á sín kné, og tala á þennann hátt vid Drottinn Jesúm; en ad því búnu héldi hún áfram verki sínu. Nú sagdi hun einnig, ad sínu hjartalagi væri allt ødruvísi háttad, enn ádur fyrri; því nú gjæti hún alltíd talad vid sína herra Jesúm, þegar hún vildi, og vel vaktad sig fyrir syndinni. Þar eptir tók hún í mína hønd og mælti: „O vissuliga, vissuliga, þér skulud finna mig aptur í himnaríki, og þar vil eg géfa þad til kynna, ad Gud hafi umvendt mér, fyrir ydar adstod. Hennar egtamadur, sem ogsvo var vel til sinna ára kominn, vard skømmu þar eptir sjúkur og deydi snøggliga. Eptir andlát hans kom einn madur til mín, hvørn hann hafdi bedid ad seigja mér, ad hann bædi ad heilsa mér, og þakkadi mér fyrir alla uppfrædíngu; ad hann geingi nú til sinnar sælufullu hvíldar, og í himnaríki mundum vid sjá hvør annann aptur.

Í W. var eg sóktur til einnar sjúkrar konu, sem skømmu fyrir sinn dauda vidurkéndi fyrir mér, hvørsu kroptugar sá gódi Gud hefdi látid þær prédikanir verda í sínu hjarta, sem hún hefdi til mín heyrdt. Þesshåttar lét Gud mig reyna hvad eptir annad, til ad styrkja mig í mínum breiskleika, og upphvetja mig enn framar til trúskapar. En óvinurinn héldt ekki heldur kyrru fyrir, heldur leitadist á allar hlídar vid, ad ángra mig, og jafnvel gjøra mér skada á mínum líkama, hvørju Gud þó nádarsamliga afvendti; jafnvel þó eg hlyti ad haltra nokkra stund. Drottinn veri þar fyrir lofadur!

Í þeim mér eiginliga tiltrúada søfnudi lét Guds óendanliga miskun mig ekki heldur ávartarlaust

erfida. Eitt og annad vil eg adeins, hønum til dýrdar, til dæmis leida. Undir minni þridju prédikun yfir Pistilsins til Rómverja 8, 14, fékk ein úng greifalig persóna kroptuga hræringu; hvør og í frá þeim tíma hefur audsýndt sig, sem sannarligt Guds barn. Drottinn hjálpi henni nú, í hennar háskaligu kríngumstædum!

Vor Hofsnidkari vard vid einn bænatíma yfir Es. 55, 8. voldugliga til Guds dreiginn, er og allt til þessa, fyrir Drottins nád alvørugefinn og ákafur í Gudhrædslunni, jafnvel þó hann hafi ei heldur haft stort af hørdum freistíngum. Enn nú einn herramanns þénari, sem nú er ordinn skólameistari í O. G., vard ogsvo til Guds dreiginn; er og einnig Drottni trúr, ad því leiti eg hefi fregn um. Snidkari á landsbygdinni, ásamt konu sinni, tóku ogsvo bædi ad snúa sér til Drottins; en hann er, fyrir nokkrum tíma, svoleidis aptur fráfallinn, ad hans hid sídara er ordid verra hinu fyrra. Drottinn veri hønum miskunsamur! En hans egtakvinna er trúr og sannur Jesú Christs eptirfylgjari. Vor saungvari hér og hans egtakvinna urdu bædi undir eins saungud af Gudi, undir einni prédikun yfir Jóh. 10, 27. Hvørt þeirra um sig urdu einhvørs þess vart hjá hinu ødru, sem þau annars ekki voru vøn, hvørt á ødru ad sjá, allt til þess þau loksins vidurkénndu þad hvørt fyrir ødru, og álýktudu sameiginliga ad snúa sér til Guds af fullri alvøru. Drottinn framkvæmir og sitt verk í þeim inn til þessa. Þau komu til mín í skriptastólinn; og í stad þess, ad þau, eptir algeinginni vísu, þyldu fram skriftagánginn søgdu þau: Nú viljum

vid skriftast ødruvísi, enn vid gjørdt høfdum ádur fyrri; tóku sídan ad bidjast fyrir af øllu hjarta, med svo gégnumþreyngjandi andvørpunum, í audmýkt og trúnadartrausti, úthellandi mørgum tárum, ad mitt hjarta vard øldúngis lifandi í mér. O gjæsi Gud, ad allir skriptudust svoleidis!

Medal annara tók greifinn einn Hof-jagara, sem var stolt, blygdunarlaus og ódæl manneskja. Allir þeir, sem óttudust Drottinn medal vor, efudust um, ad hann mundi nokkurntíma unninn verda, því framferdi hans var ofur svívyrdiligt; en eg hafdi þó heimugliga von. Eptir þad hann verid hafdi einn midseris tíma hjá oss, og gjørdt mér marga mædu med sínum vonda lifnadi, kom hann eittsinn til mín og bad um leyfi, ad hann mætti vidurkénna fyrir mér sitt sálarástand af hjarta; eg gaf hønum mjøg fúsliga leifi þartil, og þad ekki med allítilli von um, ad eg mundi fá nokkud gott ad heyra. Sídan skýrdi hann mér frá, hvørsu Guds ord hefdi um lángann tíma gjørdt sér órótt í sinni, svo hann hefdi opt ásett sér, aldrei framar ad gánga til ad heyra nokkra prédikun edur bænatíma. En nær hann hefdi nú ætlad ad framfylgja þessu sínu áformi, og gánga út á skóg, þá prédikad væri, hefdi hann ordid svo skélfdur í samvitsku sinni, ad hann hefdi hlotid ad snúa tilbaka og hlýda Guds ordi. Eptir þad hann hefdi nú hlýdt á þad, hefdi hann ordid enn nú óróligri enn ádur, svo hann ekki hefdi vitad, á hvørn hátt hann skyldi stilla sig til frids. Opt hefdi hann æskt sér, ad hann aldrei síed hefdi þennann stad, edur og ad greifinn vildi géfa sér leifi ad vera burtu frá Guds orda heyrn, hann vildi gjarnan

vinna til ad þjóna hønum kauplaust, í stadinn, og sv. frv. Þetta hefdi sidan þannig haldist vid hjá sér, allt til þess hann loksins hefdi ásett sér af alvøru ad ofurgéfa sig Drottni Jesú, þá hefdi rétt sem allri óró-semi verid undireins burtu svipt af sínu hjarta. Nú kvadst hann géta bedid Gud, og hlýdt á hans ord fúsliga; æskti og einkis framar, enn ad vera sannarligt Gudsbarn, og bad mig þessvegna um uppfrædingu. Hjá þessum manni hesi eg sídan formerkt stóra nád. Ymsir, sem ogsvo hafa kroptugliga hjá sér formerkt fodursins drátt, hafa vidurkénnt fyrir mér, hvørsu jafnvel þaunkum þeim, sem þeir haft hefdu undir Guds orda heyrn, og þeim mótmælum gégn Guds ordi, sem hjá þeim hefdi uppkomid, hafi í prédikun-inni strags án dvalar svarad verid, hvar þeir síed hef du, hvørsu Drottinn vildi, jafnvel ennnú gjøra sig sáluhólpna. Þad gékk til fyrir mørgum, eins og fordum fyrir sjálfum mér, þegar eg var í Halle, nær mér fannst, eins og allar áminningar prédikarans væru stiladar uppá mig. Sumir hafa í fyrstunni feingid þá grunsemi, ad eg hefdi einhvørn rógberara, sem mér segdi alla hluti, þar til sá gódi Gud sannfærdi þá loksins um allt annad. Adrir eru ennnú fastir á þessari grunsemi. Ein vіfs vond og hardlynd kona, sem var rétt sem ljón og vargur, og setti sig med forsi og þverúd móti mér, er nú svo umbreytt af Drottni, ad hún er nú ordin rétt sem lamb; þetta dæmi uppvekur mig svo opt, sem eg til þess þeinki. Einønnur øldrud kona lærdi ogsvo ad snúa sér til Drottins Jesú, svo hún opt med tárum vegsamadi hann fyrir þá nád, sem hann med sínu ordi

henni veitta hefdi. Á vissum persónum af greifaligu slekti, einkum framandi, sem heimsókti herrafólkid hjá oss, hefur Drottinn ogsvo audsýndt dásamliga nád sína, hvarum eg ekkert kann framar hér ad skrifa. Tveir klædasaumarar, hvørra annar býr i H., en hinn er ennnú hér í vinnumensku, urdu kroptugliga af Drottni fángadir. Yfir-reidmadurinn, er sannararligur elskari Drottins orda, og sær aldrei nóg af því ad lesa og bidja, frá því Drottinn tók ad draga hann til sín. Hjá syni amtmannsins hefur Gud ogsvo blessad sitt ord. Fjórum spánýum dæmum gét eg ei undansleppt, svo eg ekki á þau minnist. Lofadur veri Drottinn! Fyrir nokkrum tíma lidnum, gisti nokkurt greifaligt herrafólk hjá oss i nokkrar vikur. Sjálf Greifadóttirinn heimsókti mig og skýrdi mér frá, hvad Gud verkad hefdi i sinni sálu, sídan hún hingad komid hefdi. Þá hún fyrst hefdi hingad komid, sagdist hún eptir vana hafa, án alls athuga, hlýdt á þá fyrstu prédikun og fyrstu bænastund; þó hefdi þetta sierdeilis ordid sér hugfast, ad eg, í nokkrum prédikunum, hvørri eptir adra, hefdi bedid tilheyrendurnar, ad þeir vildu brúka þá adferd, ádur enn þeir kjæmu ad hlýda á Guds ord: ad ákalla Gud af hjarta um þad, ad hann vyrdtist ad leggja prédikaranum þau somu ord í hjarta og munn, sem hann sjálfur hefdi i sama sinn ályktad ad blessa þeirra sálum, og sídan skyldu þeir, med ræktiligri bæn, nidurgrafa þad heyrda ord í sínu hjarta; þá mundu þeir reyna einn alls annann krapt af ordinu i sínum hjørtum, enn nær þeir ekki breyttu svoleidis. Þegar eg hefdi nú — sagdi hún — ánýad þetta nokkra daga í rød, þá hefdi hún þeinkt med sjálfri sér: eg vil þá ogsvo reyna

þetta og sjá, hvad af því vill verda. Hún kvadst sídan hafa fallid á kné, ádur hún hefdi geingid til kyrkjunnar, og bedid sinn elskuliga Frelsara á þann sama hátt, sem eg øllum kénnt hefdi. Sídan, þegar hún komid hefdi til kyrkjunnar, hefdi hjarta sitt verid aldeilis upplokid, og sér hefdi fundist eg tala einasta til sín, og hún hefdi ekki vitad hvort hún væri á himni eda jørdu, því svoleidis hefdu allar sínar sinnis-tilfinníngar ordid lifandi í sér. Þar eptir kvadst hún hafa strags geingid ein afsídis, til ad bidjast fyrir. Alla nóttina eptir sagdi hún, ad einginn svefn hefdi komid á sín augu, heldur hefdi hún hlotid óaflátanliga ad gráta og bidja. Þessi sama greifadóttir hefur sídan nokkrum sinnum heimsókt mig; og eg hefi þá alltid haft orsøk ad glедja mig yfir því, hvørsu Guds nád hefur dagliga hjá henni í vøxt farid. Vid skrifustum nú ogsvo á innbyrdis.

Medal þessa sama greifaliga herrafólks var einnig Jómfrú nokkur, sem med stórri hjartans hræríngu skýrdi mér frá, hvørsu sá elskuligi Gud hefdi strags, undir þeirri fyrstu prédikun, sem hún hefdi til min heyrdt, hrært sitt hjarta, og í frá þeim tíma hefdi Guds ord smakkast sér lángt ødruvísi i sínum krapti, enn ádur. Hún sagdi mér ogsvo, ad menn hefdu stórum varad sig vid því, ádur enn hún híngad reisti, ad láta ínetja sig af kenníngu minni, því eg hefdi verid útmáladur fyrir sér mikid skélfiligur; en þó hefdi hún alltid fundid hjá sjálfri sér heimugliga laungun eptir því, ad heyra þennann svo ordlagda mann prédika; og hún vegsamadi Gud hjartanliga fyrir þá nád, er hann sér audsýndt hefdi. Ásamt þessari Jómfrú hefi eg sídan átt marga blessada stundu,

medan hún dvaldi hér; hún framgeingur ogsvo ennnú vel fyrir Gudi; honum sé lof og vegsemd!

Skömmu fyrir Skýrdag á þessu ári 1726, gaf sig einn prestssonur tilkynna fyrir mér, ad hann vildi vera til Gudsbords. Eg spurdi hann þá, hvorsu hans sálarástandi varid væri? Haun svaradi: því gjörist, Gudi sé lof! alltid betur og betur háttad. Eg spurdi hann þá: hvad hann meinti med því? Hann svaradi: Nú tek eg fyrst til ad verda Kristinn. Af því eg hafdi nú ádur hjá þessum manni var ordid vid fágjæta athugasemi, undir heyrn Guds orda, þá vildi eg gjarnan komast ad rettum grundvelli um þetta. Þessvegna sagdi eg þá til hans: þér munud þó ádur hafa Kristinn verid, þér munud nú vist ekki efast um ydar trú. Haun svaradi: eg kann ekki neita því, ad allt til þessa hefi eg ekki Kristinn verid. Eg spurdi hann þá: hvaraf eru þessir þankar hjá ydur uppkomnir? Hann svaradi: Gud hefur géfid mér lifandi þekkingu þarum. Því fyrra Jóladag fángadi Gud mitt hjarta undir ydar prédikun, í hvörri þér töludud um uppruna þeirrar sann-gudligu gledi yfir fædingu Guds sonar; svo eptir þad var þad eingu likara fyrir mér, enn sem hellt væri köldu vatni, hvad eptir annad, yfir allann minn likama. Nú er Guds ord rétt lifandi í mér, sem eg sé ekki framar hér á jördunni. Eg veit nú fyrir víst, ad Gud vill gjöra mig ad sínu barni, og sv. frv. Þessi madur var mér rétt ástúdligur géstur, hvorn eg tók mjög fúsliga til sacramentis. Sidan höfum vid opt átt tal hvor vid annann, og höfum bedist ásamt hvor med ödrum fyrir. Þetta eptirfylgjanda, sem einusinni tilbar, var mér hardla ánægjurikt: fyrir nokkrum vikum áttum vér,

yfir bordum, samtal um Guds kjærleika, þá gjørdi Gud hjarta mitt svo fullt af andligum føgnudi, ad eg sagdi: svo sannarliga sem eg sje hér mínar høndur fyrir augum mér, allt eins veit eg fyrir víst, ad Christur ad eilífu elskar mig; óskandi þarhjá af hjarta, øllum sem nálægir voru, ad þeir af alvøru vildu leita Guds nádar í Christo Jesú. Næsta dags kom þessi sami madur, sem eg ádur minntist á, til mín og sagdi: þegar vér yfir bordum hefdum talad um Guds kjærleika, og eg hefdi sagt þau strags framfærdu ord, hefdi þad allt ad einu verid fyrir sér, einsog einhvor hefdi viljad taka sig høndum og draga sig til himnaríkis. O þann gjædskúrika Gud!

Loksins vil eg hér framsæra hid fjórda dæmid: Skotmadurinn kom nýliga til mín, og vidurkéndi, hvørsu sá elskuligi Gud hefdi nú gésid sér alla adra þekkingu um sjálfann sig, enn hann hefdi ádur haft. Hann kvadst nú sjá, ad sínu sálar-ástandi hlyti allt ødruvísi háttad ad verda, ef hann ætti ad verda sáluhólpinn, og hann sagdist nú allareidu fyrirfram géta merkt, hvørsu sannsgladur hann verda mundi í sálu sinni, ef hann sannumvendtur yrdi, og herra yfir sinni syndasøillingu. Þetta er nú ad vísu hin fyrsta uppbyrjan fyrir honum; en hvor mun géta Guds barn ordid, án þess hann gjøri hina fyrstu byrjun þartil? Drottinn sé vegsamadur fyrir þad allt saman! Hann er bædi uppbyrjarinn og fullkomnarinn! Eg gjæti ad vísu skýrt frá ýmsum þvílíkum eptirdæmum; en þad skal nú standa vid þad, sem komid er. Um þá sem aptur hafa fráfallid vil eg ekki tala. Gud vægi þeim! — Ef eg skyldi nú útmála mín sjálfs innvortis ásigkomulag, óvinarins hælbit, þá opt og tídum nærri

óbærilígu þreyngíngu, og þann harda bardaga; samt þá byrdi, sem þeir hljóta uppá sig ad taka, er rétti-líga vilja framkvæma sitt embætti; sömuleidis þá stak-lígu endurnæríngu, sem Gud þess ámilli veitti mér, svo þyrsti eg þar tíma til, og gjæti þad samt sem ádur ekki vel útlistad.

Mín fyrsta prédikan, sem eg héldt fyrir söfnud-inum, eptir þad eg var vígdur, var yfir 1 Cor. 2, 1—5; og hafi Gud veitt mér þá nád, ad eg nokkurn-veiginn hafi reyndt kraptinn af ordum þess 1ta, 2rs, 4da og 5ta vers, þá hefi eg sannarliga ogsvo nokkud hlotid ad smakka hid 3ja vers, sem í midid stendur, í þess krapti. En allt híngad til hefur þó Drottinn hjálpad mér; hönum sé lof og dýrd og þakklæti! Hann vyrdist ogsvo framveigis med mér ad vera!

Undireins og eg kom híngad, tók eg til ad lesa og útleggja Gudspjallamanninn Matthæum, í kvöld-bænatímunum. Um þann hálfs sjötta árs tíma, sem eg hefi hér verid, eru þeir fjórir Gudspjallamenn þri-svarsinnum yfirfarnir; sem og einnig útlögd Gjörn. bók Postulanna, Bréfid til Rómverja og þad fyrra til þeirra í Corinthuborg; þær merkilígustu greinir út af sálmum Davids, og því gamla Testamenti, sem höndla um Christum; og þaradauki Katekismus nokkrum sinnum. Prédikanir hafa aldrei undanfeldar verid, og margar uppvakníngar hafa sked, vid útskýr-íngu sérdeilis útvalinna Ritníngargreina, eptir þeirri nád, sem Gud mér léuta hefur, allt eptir því sem eg þekkt hefi naudsýnligt vera, eptir tilheyrendanna ásig-komulagi. Bréfid til Ephesus-manna var útskyrdt í 75 prédikunum, og Katekismus sömuleidis útlagdur; og svo framveigis. Strags í upphafi gaf eg söfnud-

inum til kynna, ad sjerhvør, sem gánga vildi til Gudsbords, hlyti ad láta mig vita þad fyrirfram. Eg lýsti því ætíd þessvegna 14 døgum fyrir.

Um þá somu daga héldt eg ekki ad eins fjórar opinberar undirbúníngsrædur í tilliti kvøldmáltidarinnar, heldur lét eg ogsvo, þann sama tíma, þad vera mitt einasta erfidi, frá morgni til kvølds, ad tala vid sérhvørja sálu útaf fyrir sig. Eg hefi þad traust til Guds, ad slíkt samtal hafi ekki verid án blessunar, af hans hendi. Vid þetta uppvaktist eg sjálfur allkroptugliga, en mátti ogsvo opt verda mjøg ángrádur. Því nær madur á þannig mannligt samtal vid sálirnar, sjer madur Guds nád miklu betur enn annars; en madur reynir ogsvo fjandans slægd og makt, framar enn ella.

Jafnvel þó Guds ord væri hér nú svo ríkugliga bodad, hefi eg þó hlotid med ángist ad reyna, ad margir voru, eptir sem ádur, yfirmáta fákunnandi, og þad jafnvel í þeim algeingustu lærdómum. Eg sá ekki, hvørsu eg feingi slíkum vansa afvendt; loksins gaf Gud mér þad í sinni, þegar eg einn morgun bar upp fyrir hønum safnadarins hørmuliga ástand, med mørgum hræríngum í hjarta mínu, ad eg best gjæti fyrir fávitskuna í veg komid, med því ad yfirheyra fólkid.

Nú voru þar ekki svo þau børn til, sem eg yfirheyrdt gjæti, þessvegna ásetti eg mér ad byrja þad vid þá fullordnu! Yfirvaldid gaf mér ogsvo leifi þartil. Á einum kvøldbænatíma auglýsti eg nú fyrir søfnudinum, hvørsu eg findi mig skuldbundinn fyrir Gudi, og knúdann af þeim kjærleika, sem eg bæri til allra þeirra, ad leita þeirra besta, á allann hátt. Þessvegna,

med því eg væri nú svo inniliga ángrádur yfir þeirri fákiænsku, er eg fíndi hiá svo mørgum þeirra, þá hefdi eg, eptir gjørda hjartanliga bæn til Guds, med leifi yfirvaldsins, áſett mér ad halda- yfirheyrſlu á þridju- og fostu-daga, í ſtadinn þeirra vanaligu prédikana á bænatímunum. En uppá þad eingínn ſkyldi nú hafa sig undan þessu, af ótta fyrir því, ad verda til minkunar fyrir sína fávitsku, þá hét eg því, ad eg ekki spyrja ſkyldi einn einasta, nema þann, sem sjálfur án naudúngar vildi láta sig spyrja, en hinir allir ſkyldu þó vera áheyrendur, hvadst eg þar fyrir vilja tala vid þá fyrirfram um þetta, til ad vita hvørjir vildu sig til þessa fúsir géfa. Eg setti þeim fyrir sjónir þá stóru nytsemi, sem þeir gjætu af þessu haft, áminnandi þá, ad þeir dyggiliga kjæmu til þessarar ydkunar; og þad væri líka yfirvaldsins alvarligur vilji, ad eingínn ſkyldi þessa æfíngu vanrækja ad naudsynjalausu. Undireins og eg hafdi nú gjørdt þetta mitt áform kunnugt, þá glødduſt allir velþeinkjandi þarvid, en hinir løstudu og løgdu þad illa út fyrir mér; eg setti þeim sídan í fám ordum fyrir sjónir þeirra følsku ástædur þartil, og lét ekki fyrir þad afvegaleida mig. Yfirheyrslan byrjadi í Febr. 1723, og hafdi gódann framgáng vid þénara, þjónustu-ſtúlkur, jómfrúr og annad yngisfólk, og Gud gaf mikla uppbyggingu, einkum af því eg hafdi leift øllum opinberliga ad spyrja mig aptur. Þetta héldst svo vid til þess í Júníó 1725, þá eg ekki leingur gat nád áformi mínu, sem eg æſkti, vegna þess ad flest af þessu fólki fór þá burt úr sókninni, en annad nýtt kom aptur í þess ſtad. Sem eg nú fann, ad þessi stóra hindran kom í veg fyrir þetta mitt áform, sneri

eg hjarta mínu til barnanna. Í Júníó 1725 safnadi eg saman nokkrum børnum úr minni sókn, og lét þau koma til mín tvisvar í hvorri viku. Loksins vard eg bænheyrdur um þad, sem eg optliga hafdi leidt yfirvaldinu fyrir sjónir, og umsókt, nefniliga, ad børnin af landsbygdinni — sem er annexia til F. — yrdu feingin þessarar sóknar saungvara til uppfrædingar, en mér til umsjónar. Svo hafdi eg þá 30 til 40 børn, undir minni umsjá. Eg undirlagdi sídan, hvornig uppfrædingar-mátinn skyldi í skólanum lagadur vera, og tók svo fyrir mig í hvorri viku ad yfirheyra þau endur og sinnum heima í húsi mínu, á þeim annars vanaligq bænatíma, en þá fullordnu lét eg vera áheyrendur. Drottinn opni mín augu, til ad sjá hvad bést þéna kann til mér tiltrúads safnadar uppbyggíngar!

Í uppbyrjan þess sama árs kom eg í þrætu vid mann einn af ædra standi, sem neitadi þeim mikil-vægustu atridum í lærdóminum út af Christo, vid hvørt tækifæri sá gódi Gud, fyrir sitt ord og anda, grundvalladi mig æ meir og meir í þessari háleitustu trúarinnar høfudgrein, svo eg hefi órsøk til ad lofa og vegsama hans heil. nafn, fyrir þvílíkann velgjørníng, um tíma og eilífd. Einn af þeim tímum, á hvørjum eg hefi mestu blessum í mínu embætti, af einskiærri Guds nád, hlotid, var víst sá, á hvørjum eg reisti, med yfirvaldinu, til E. árid 1723. Á þessari reisu gaf Gud mér tækifæri til sertánsinnum hér og þar ad prédika sitt ord, og þad ekki án audsjáanligrar blessunar; hann sé fyrir alla hluti hærst vegsamadur. Í E. prédikadi eg sersinnum; og var í hvørt sinn yfirmáta stór fjøldi fólks nálægur. Medal annara var þar vid amtmadurinn, sem hafdi reformerud

trúarbrøgd. Ad nokkrum prédikunum afstodnum, talaði hann við mig, og einusinni, við brunninn, bád mig ad halda opinbera ræðu, út af þeirri trúarinnar høfuðgrein, sem høndlar um Guds nádar útvalníngu, og hét eg því, ad eg skyldi hana eptir heil. Ritníngu svoleidis fyrir sjónir leida, ad það gæti ordið tilheyrendunum til uppbyggíngar. Eg útvaldi mér fyrir texta það 11ta vers úr 33 kapítula Esekíelis. Guð var þá kroptugliga med mér, og gjordi mitt hjarta svo heitt af sinni elsku, og fullt med laungun eptir frelsun þeirra nálægu sálna, ad eg ekki um lángann tíma hafdi slíks hita hjá mér var ordið. Undir prédikuninni komst gjørvallur søfnudurinn við, og morgum tárum var þá úthellt. Sú uppsretta sem þá útfossadi, var ofdjúp til þess, hún gæti í eitt skipti úttæmst, þarfyrir var eg neyddur til ad prédika aptur í annad sinn, út af sama efni. Eptir það eg haldið hafdi þá fyrstu predikun, sendu nokkrir kaupmenn í Hamborg mér 4 Speciu-Dúcata, og bádu mig ad koma til sín, hvar mín ræda var ekki heldur án blessunar. Amtmadurinn vegsamadi ogsvo Guds náð, og baud mér til samtals við einn reformeradann inspektor, hvar eg talaði út af því 14da til 17da versi hjá Jóhannes í 3ja kapítula, svo sá fyrri, nefnil. amtmadurinn, umvendtist, en sá sídari beigdist, hvored daginn eptir, bad mig ad bidja fyrir sér. Við þá adra prédikun mína útaf sømu Ritníngargrein hjá Esekíel, vóru enn þá fleiri tilheyrendur nálægir enn ádur, og Guds náð var óútseigjanlig.

O þann gæðskuríka Guð! þó eg hefdi annars ekki ádur verið búinn ad komast ad raun um það, hvørsu Guð hjartanliga leitar allra — já allra —

manna sáluhjálpar, þá hefdi eg þar mátt reyna það. Í prédikuninni svaradi eg þeim esamálum, sem einn freistadur kynni ad gjöra sér út af 9da kapit. til Rómverja. Við útskýringu þessara orda í textanum: "hvar fyrir viljið þér deya?" kom eg í veg fyrir þær assakanir og viðbárur manna, sem hér eptirfylgja.

1. Það er ekki möguligt (seigja menn), ad neinn madur géti orðið þvílíkur. Eg svara: víst er það möguligt, ef þeir géfa réttiliga Guðs náð rúm hjá sér.
2. Ver viljum heldur láta það vera við það gamla. Eg sagði: þeir skyldu láta það vera við þann eldsta, og það væri Guð og hans heil. orð.
3. Guð er miskunsamur, hann geingur ekki svo strángt eptir. Þar til svarast: Guðs miskunsemi er við víssa skilmála bundin, annars væri hann ekki réttlátur.
4. Nú vel, eg skal leggja af það og það. Svar: útvortis betrun, án hjartans hreinsunar, er ónýt.
5. Það mættu þá fáir verða sáluhólpnir; hvörsu kann Guð ad láta það ské? Eg svaradi: gjætum ad, hvað Jesús sjálfur seigir hjá Matth. 7, 13-14. og Luc. 13, 24.
6. Hvar eru þvílíkir menn, sem svoleiðis lifa? Finna menn ekki mikla hræsni í heiminum? Svar: hvað um það! Guðs orð umbreytist ekki fyrir það!
7. Þegar eg verð sjúkur, þá skal eg umvenda mér. Eg svara: hvörsu dárligur þánki! mun hann ekki hafa margann svikið?
8. Madur mætti þá gjöra sig ad narra fyrir fólki.

Svar: viltú þá skeyta neira fyrir menninа, enn Gud?

9. Æ! eg hefi trúna! Svar: ber hún þá sína réttu ávexti innvortis? sjá hvad Jacob seigir: 2, 14.

10. Hvar fyrir skyldi þá Christur hafa dáid, ef menn þyrftu ad lifa svo heilagliga? Svar: sjá hvad Paulus seigir Gal. 2, 17. Ephes. 5, 25—27. Tit. 2, 11—14.

11. Menn hafa einga lyst þartil. Svar: ad vísu! En mun þad ekki merki fordæmingarinnar?

Næsta dags eptir reistum vid þadan á burtu, og í ødrum stødum prédikadi eg tiusinnum. Þad er þitt ord, ó Drottinn! láttú þad bera mikinn ávøxt!

Í T. blessadi Drottinn sitt ord merkiliga. Einkanliga komst ein Greifainna kroptugliga vid, hvøred ogsvo ifrá þeim tíma af alvøru sneri sér til Drottins, og lofsins, undir sinn afgáng, lofadi hann og vegsamadi af hjarta, fyrir þá nád, sem hann sér í þad sinn, fyrir sitt ord, veitta hefdi. Hún stendur nú fyrir Lambsins thróni.

Þad sem nú komid er, hefi eg í þetta sinn uppteikna viljad, einum Gudi alleinasta til lofs og vegsemdar.

Hann vyrdist ad vera í og med øllum þeim, sem hann af hjarta elska! Amen!

E. þann 7da Júlii 1726.

H. S.

---

☞ Evangelisk Smárit, frá byrjun Nr. 69, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi géfins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þau edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim, sem þeir færa þau, ef vilja.

---

Kaupmannahøfn 1850. Prentad hjá S. L. Møller.